4 (til Prófasta og sóknarpresta á Íslandi).

1. Hvör eru takmörk sóknarinnar (sóknanna) á alla vegu?
2. Hvör eru þar fjöll, hálsar, heiðar eða fell*)? hvörnig eru þau áföst öðrum fjöllum eður sín á milli? í hvörja átt liggja þau hvört um sig, og hvar enda þau? — Ef þau koma úr öræfum — hvað heita þá öræfin á bak við þau, svo lángt sem menn þekkja, og hvörnig er þeim háttað? hvörnig er hvað af þessu lagað eður útlítandi (hátt eður lágt, bratt eður óbratt, klettótt, bert eður grasi vaxið)?
3. Hvörir eru þar jöklar við bygð eður í öræfum, og hvörnig liggja þeir? eru þeir hájöklar, falljöklar eður skriðjöklar? eru þeir gengir? aukast þeir svo menn viti, og í hvörja átt?
4. Hvörskonar klettar eru þar í fjöllum (blágrýti, móberg, stuðlagrjót o. s. frv.)? og sè þar meir enn einskonar grjót, hvörnig liggja þá lögin?
5. Eru þar nokkurstaðar, svo menn viti, málmar eður merkiligar steina tegundir í klettum eður jarðlögum? og hvörjar, ef eru?
6. Eru þar nokkrar leifar í jörðu, svo menn viti, af fornaldar jurtum eður dýrum (t. a. m. surtarbrandur, steinkol, skeljar, o. s. frv.) og hvar, ef eru? og hvörnig er jarðlagið kríngum þær?
7. Eru þar brennusteinsnámur, og hvar, og hvörnig er þeim háttað, og hvörnig eru þær notaðar?
8. Hvörir eru þar dalir (aðaldalir og afdalir)? hvörnig liggja þeir? og hvað heldur að þeim?
9. Hvör eru þar nes (höfðar, múlar, o. s. frv.)? og hvörnig liggja þau (í hvörri röð, í hvörja átt o. s. frv.)?
10. Hvörjar eru þar eyar, bygðar og óbygðar? hvörsu stórar eru þær hvör um sig, og hvörnig lagaðar? í hvörja átt og hvörnig liggja þær hvör frá annarri og frá meginlandi?
11. Hvör eru þar eldhraun? hvaðan eru þau komin? hvar liggja þau (takmörk þeirra á alla vegu)? hvörsu stór eru þau eptir ágizkun? eru nokkrar gjár í þeim merkiligar, eða hellirar? og hvörnig er þeim varið? hvað vita menn um uppkomu og aukníng hrauna? að hve miklu leiti eru þau ber eða gróin? grær þar gras eða skógur?
12. Hvar eru þar aðrir hellirar? og hvað heita þeir? hve stórir eru þeir? og að hvörju leiti eru þeir merkiligir?

---

*) Þar sem fjöll, vatnsföll, bæir, eður annað hafa eður hafa haft fleiri nöfn enn eitt, biðjum vèr, að þau sèu skilmerkiliga til greind.

13. Hvörir eru þar skógar, hvörsu stórir og hvörsu góðir? ferr þeim fram eða aptur, og hvað veldur því? Vex þar nokkurr annarr viður (til að m. reiniviður) og hvar, og hve mikill?

14. Hvörnig er þar landslag, yfirhöfuð að segja, (votlendt eða þurlendt, slètt, móótt, melótt, eyðisandar o. s. frv.)?

15. Hvör hefir þar orðið breytíng á landslagi síðan landnámatíð, svo sögur fari af?

16. Hvörir eru þar firðir og víkur, og hvör eru þar sund? hvörnig liggur það allt og í hvörri röð? (lengd og breidd eptir ágizkun).

17. Hvar eru þar hafnir og beztar lendíngar? hvörir eru kostir og ókostir þeirra?

18. Hvar eru þar rastir, boðar, grynníngar, rif eða sker? er þar útgrynni eður aðdjúpt? aukast þar grynníngar svo menn viti?

19. Hvör eru þar rennandi vötn, stór og smá? hvar hafa þau upptök sín? hvar renna þau, og í hvörja átt? eru þau vatnsmikil, straung, lygn, og hvörnig eru þau yfirferðar? hvörir eru í þeim fossar, og hvörnig lagaðir (breiðir, háir, beinir)? hvörnig er farvegi háttað (gljúfur, bakkar, eyrar)? að hvörju leiti hafa þau breytt farvegi sínum svo menn viti? hvar eru á þeim helztu góð eða hættulig vöð eða brýr, kláfar eða ferjur, og hvörjar lögferjur? hvörsu djúpar eru þar stórár við sæ, og hafa menn sögur af að skipum hafi verið lagt upp í þær, og hvört?

20. Hvör eru þar stöðuvötn, og hve stór, og hvar liggja þau? Eru í þeim eyar, og hvörjar eru þær, og hvörsu er þeim háttað?

21. Hvörjar eru þar laugar, hverir, ölkeldur, og hvar, og hvörnig er þeim háttað?

22. Er þar veðra–samt? og af hvörri átt, og um hvörn tíma árs, mest eður minnst?

23. Er þar rigníngasamt? eður þurkasamt? og af hvörri átt mest eður minnst? og hvörnig hagar því eptir árstímum?

24. Er þar snjóvasamt á vetrum? og af hvörri átt mest eður minnst?

25. Hvör átt er þar köldust, og hvör heitust?

26. Hvört er þar nokkur regla í veðráttufari, svo menn hafi tekið eptir — til að mynda: að sama eður líkt veður gángi þar ár eptir ár um sama leiti?

27. Verður þar vart við reiðarþrumur, og hvörsu opt, og um hvörn tíma árs er það gjarnast? í hvaða veðri? Hefir þar orðið grand að lopteldi svo menn viti?

28. Sjást þar nokkrar sèrligar loptsjónir, eður með hvörju móti?

29. Kemur þar hafís? og eptir hvörju hafa menn tekið um aðferð hans og eðli og afleiðíngar?

30. Hvörir eru þar bæir (og hjáleigur) eptir bæaröð? í hvörja átt og hvörsu lángt liggja þeir hvörr frá öðrum? hvar stendur hvörr þeirra (til a. m. undir hvörju fjalli, við hvörja á, fjörð eða vík, o. s. frv.)? hvörr er dýrleiki hvörrar jarðar? hvörnig eru landskostir hvörrar jarðar (útigángur, heyskapur, o. s. frv.)? hvörir eru helztir ókostir jarða? liggja þær undir áföllum, og hvörjum (skriður, snjóflóð, landbrot, sandfok, o. s. frv.)? að hve miklu leiti vita menn til þær hafi gengið af sèr? eður batnað?

31. Hvörir bæir eiga þar selstöður, og hvar? hvörjar þeirra eru notaðar, og hvörsu lengi? hvörjar eru niðurlagðar, og hvönær, og hvörsvegna svo menn viti?
32. Hvar eru þar afrèttarlönd (eru það almenníngar eður liggja þau undir einstakar jarðir, og hvörjar þá)? hvörjar sveitir hafa þar upprekstur? hvörjar rèttir eru þar, og hvar, og hvönær haldnar, og hvaðan til sóktar?
33. Hvör er þar veiði til lands og sjávar (selveiði, allskonar fiskiveiði, fuglveiði, hreindýraveiði, refadráp) og hvör er veiðiaðferð við hvört um sig? — Hvar eru veiðistöður? Hvör eru þar fiskimið, hákallamið, nótlagnir, netalagnir, lóðamið? hvör eru þar fuglabjörg, og hvörnig er þeim háttað?
34. Um hvörn árstíma eru veiðar stundaðar, og með hvörjum hætti? fer þeim aptur eða fram?
35. Hvað vita menn þar ljósast um allar fiskigaungur?
36. Hvönær koma og fara farfuglar þar vor og haust?
37. Hvör eru þar önnur hlynnindi (eggvarp*, dúntekja, fjaðratekja, lundatekja, rekar, grasatekja, sölvatekja, meltak, mótak, hvannatekja, berjatekja, litunargrös o. s. frv.) og hvörnig eru þau notuð? fara þau vaxandi eður mínkandi?
38. Eru þar eyðijarðir, og hvörjar, og hvar, og hvörnig og hvönær hafa þær lagzt í eyði?
39. Hvör eru þar nýbýli, og hvönær upptekin?
40. Hvar liggja alfaravegir um sóknina, og úr henni í aðrar sóknir á alla vegu; (fjallvega lengd eptir ágizkun)? — Vegabætur: ruðníngar, brýr, vörður, sæluhús o.s.frv.? — Torfærur: hvörnig þeim sè varið, og hvört úr þeim verði bætt; (áfángastaðir á fjallvegum)? hvörir bæir standa næstir fjallvegum beggja vegna?
41. Hvar er kirkjustaður (annexía eður prestssetur)?
42. Hvar hafa verið kirkjur eða bænhús, sem nú eru aftekin? og hvönær hafa þau lagzt niður? og hvörir bæir hafa átt þángað (kirkju) sókn?
43. Hvörjar (kirkju) jarðir liggja til kirkjunnar? og hvör ítök?
44. Hvör er lènsjörð prests (á þíngabrauðum)?
45. Hvörsu opt skal messa á hvörri kirkju?
46. Hvörjar eru þar kristfjárjarðir, fátækrajarðir eður aðrar jarðir til almennra þarfa? hvörr hefir umsjón þeirra? hve mikið er afgjald þeirra, og til hvörs er því varið? hvörnig eru þær til komnar, svo menn viti?
47. Hvörir bæir eru þar reisugligastir og bezt húsaðir? Nota menn þar rekavið eður innlenda skógarapta til húsabygginga?
48. Hvör eru þar kauptún? hvörsu fjölmenn eru þau? eru þar mörg kaupmannasetur? hvörir búa þar fleiri enn kaupmenn? hvör eru þar (eður annarstaðar í sókninni) hróf handa þiljuskipum? hvar liggja þau, og hvörnig er þeim varið? hve mörg eru þar (í kaupstaðnum) steinhús, timburhús, torfhús? hvör eru þar fiskitökuhús eða önnur hús utan kaupstaðar, er liggja undir kaupstaðinn?

*) Eru þar hlaðnir varphólmar, og af hvörjum?

49. Hvörir eru þar bjargræðisvegir? hvörir af þeim eru arðsamastir, og hvörir mest ræktir?
50. Eru þar hafðar færikvíar? eru kýr hafðar inni á sumrum, eða hestar traðaðir? Eru þar höfð beitarhús á vetrum? tíðkast þar borgir eður önnur fjárhús?
51. Hvörnig er þar stunduð almenn jarðarækt, túngarðahleðsla, túnaslèttun, greftir til vatnsafleiðínga, skriðugarða hleðsla o. s. frv.?
52. Hvörnig er þar stunduð kálgarða rækt, kartöplur eður jarðepli?
53. Hvað er þar haft til eldsneytis?
54. Er þar nautfè eður sauðfè svo menn viti af útlendu kyni, og hvörsu arðsamt að tiltölu við hið innlenda?
55. Hvörnig hagar þar allri vinnu, inni við og úti við? Hvör er þar innivinna á vetrum og hvör útivinna? Í hvörri viku sumars er sláttur vanur að byrja og enda?
56. Hvörjar íþróttir eru þar tíðkanligar (sund, skot, skíðaferð, skautaferð, glímur o. s. frv.)? hvörjar mest tíðkaðar eður af hvörsu mörgum o. s. frv.?
57. Eru þar leikin hljóðfæri, og hvör og af hve mörgum? Þekkja menn þar nótna saung?
58. Hvað hafa menn helzt til skemtunar?
59. Hve margir eru þar skrifandi?
60. Aldur og kyn þeirra sem ekki eru skrifandi?
61. Hvörnig er siðferði þar varið? í hvörju er því helzt ábótavànt? ferr því aptur eða fram?
62. Ferr trúrækni þar aptur eða fram? eða þekkíng trúarbragðanna?
63. Eru þar læknar settir af konúngi, eður aðrir, og þá hvörir, er leyfi hafa til lækninga?
64. Eru þar yfirheyrðar yfirsetu konur, eða aðrar er leyfi hafa til þeirrar iðnar?
65. Hvörir sjúkdómar eru þar almennastir? eru þar nokkrir sèrligir sjúkdómar (t. a. m. ginklofi, holdsveiki) og hvörir?
66. Hefir almúgi þar nokkur innlend meðöl við sjúkdómum, og hvör; (t. a. m. lækninga jurtir, jarðböð, sjáfarböð, laugar o. s. frv.)?
67. Er kvikfènaður þar undirorpinn nokkrum sèrligum sjúkdómum? hafa menn nokkur ráð við þeim, og hvör?
68. Eru þar nokkrar fornleyfar, t. a. m. rúnar í hellirum eður á björgum eður hellum, einstakir steinar, eður forn leturskurður eður myndir á trè eður málmsmíði? elligar önnur merkilig fornrit á bókfelli eður vefnaði? elligar fornar húsatóptir, naust eða hróf, dómhríngar, garðlög, steinar (blótsteinar, hörgar, grettistök) eður haugar?
69. Eru nokkrar fornsögur manna á milli, og hvörjar? eður fáheyrð fornkvæði, og hvör?
70. Hvörjar fornleifar hafa fundist þar (eða verið geymdar) svo menn viti, sem nú eru þar ekki framar, og hvað er orðið af þeim?

---